# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, JÚLÍ 1894. Nr. 5.

## Tíunda ársþing hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi

kom saman í kirkju Víkrsafnaðar á Mountain í Norðr-Dakota þriðjudaginn 26. Júní. Eins og venja er til fór fram opinber guðsþjónusta áðr en þingið væri sett, og hófst hún einni klukkustund fyrir hádegi. Sálmrinn 617 í sálmabókinni („Vér komum saman á kirkjufund") var fyrst sunginn. Því næst las forseti kirkjufélagsins séra Jón Bjarnason 118. Davíðs sálm og flutti bœn, og prédikaði því næst út af Lúk. 17, 5—6 („Auk þú oss trúna" — o. s. frv.). Á eftir prédikaninni, sem enduð var með bœn og blessan, var sunginn sálmrinn 534 („Sú trú, sem fjöllin flytr").

Að guðsþjónustunni aflokinni var kirkjuþingið sett af forseta samkvæmt ákveðnu formi, er farið hefir verið eftir við sama tœkifœri á undanförnum árum. [Þingsetningarform þetta, sem að mestu leyti er hið sama og það, er tíðkast í *General Council*, verðr prentað í næsta blaði.] Því næst skýrði forseti frá, að í kirkjufélaginu stæði söfnuðir þeir, sem nú skulu nefndir: Garðarsöfnuðr, Þingvallasöfnuðr, Víkrsöfnuðr, Fjallasöfnuðr, Graftonsöfnuðr, Hallsonsöfnuðr, Vídalínssöfnuðr, Pembinasöfnuðr, Brandonsöfnuðr, Frelsissöfnuðr, Fríkirkjusöfnuðr, Þingvallanýlendusöfnuðr, Lúterssöfnuðr, Winnipegsöfnuðr, Selkirksöfnuðr, Víðinessöfnuðr, Árnessöfnuðr, Brœðrasöfnuðr,

Fljótshlíðarsöfnuðr, St. Pálssöfnuðr, Marshallsöfnuðr, Spanish Forksöfnuðr, Pétrssöfnuðr. — þá gat hann þess, að hinir sex prestar kirkjufélagsins væri allir viðstaddir, þessir: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann, séra N. Steingrímr þorláksson, séra Hafsteinn Pétrsson, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Björn B. Jónsson, — sömuleiðis féhirðir kirkjufélagsins Árni Friðriksson.

þar næst voru þeir Vilhelm H. Pálsson, Björn Jónsson og Jón S. Bergmann kvaddir í nefnd til að rannsaka kjörbréf erindsreka frá söfnuðunum.

2. fundr, sama dag kl. 3¼.

Kjörbréfanefndin kom með skýrslu sína. Sæti á kirkjuþinginu áttu þessir erindsrekar.

H. Hermann, Sigurðr Sigurðsson, J. Guðm. Davíðsson og Jón S. Bergmann frá Garðarsöfnuði; Job Sigurðsson frá þingvallasöfnuði; Jóhannes Jónasson, Halldór F. Reykjalín, Tómas Halldórsson frá Víkrsöfnuði; Friðrik Bjarnason frá Fjallasöfnuði; FinnbogiHjálmarsson frá Graftonsöfnuði; Jakob Benediktsson frá Hallsonsöfnuði; Jón Sigfússon og Jónas Samsonarson frá Vídalínssöfnuði; Ólafr þorsteinsson frá Pembinasöfnuði; Árni Sveinsson og Friðbjörn Friðriksson frá Frelsissöfnuði; Björn Jónsson frá Fríkirkjusöfnuði; Vilhelm H. Pálsson, Jón A. Blöndal, Jón Bíldfell og Páll S. Bardal frá Winnipegsöfnuði; Ísak Jónsson frá Selkirksöfnuði; Kristján Schram frá St. Pálssöfnuði; þorsteinn Jóhannesson frá Pétrssöfnuði.

Allir þessir 24 erindsrekar voru komnir til kirkjuþings. — Frá Brandonsöfnuði kom afsökun fyrir því að geta í þetta skifti engan erindsreka sent til þingsins.

Árna Sigvaldasyni, kjörnum fulltrúa frá Lincolnsöfnuði í Minnesota, sem eigi hefir enn reglulega gengið í kirkjufélagið, voru veitt sömu réttindi á kirkjuþinginu eins og öðrum erindsrekum; sömuleiðis málfrelsi Jóhannesi Pétrssyni frá sama söfnuði, sem einnig var kominn til þings án þess þó að hafa verið til þess kjörinn.

Allir rituðu kirkjuþingsmennirnir undir þessa játning:

„Vér undirskrifaðir prestar og kirkjuþingsmenn endrtökum hér með hina lútersku trúarjátning safnaða vorra, er vér sem meðlimir hinnar lútersku kirkju höfum áðr gjört, og skuldbind-

um oss hátíðlega til að starfa á þessu kirkjuþingi og heima í söfnuðum vorum að þeim málum, sem hér verða samþykkt, samkvæmt grundvallarlögum kirkjufélags vors og tilgangi þeirra."

Þá las forseti upp og lagði fram *ársskýrslu* sína þannig hljóðandi:

Árið þetta síðasta hefir litla breyting til framfara gjört á hinum ytra hag kirkjufélags vors. Það hefir, eins og þér allir vitið, verið eitthvert mesta vandræðaár, sem saga þessa lands veit af að segja. Atvinnuskortrinn og hin almenna fjárþröng hafa heft allar framfarir, hinar kirkjulegu framfarirnar jafnt og aðrar. Á slíkum hörðum tímum verða menn að gjöra sér að góðu, þó að flest öll félagsmál standi í stað, mega þakka fyrir, ef ekki verðr aftrför. Guði sé lof fyrir það, að hversu ervitt sem með kirkjumálin hefir gengið á árinu, sem leið, hefir hann þó haldið verndarhendi sinni yfir oss og þessu veika kirkjufélagi, varnað því af miskunn sinni, að þessi litla stríðandi kirkja vor félli í rústir.

---

Söfnuðirnir, sem kirkjufélaginu tilheyrðu í fyrra, þegar kirkjuþingið kom saman, voru 22, að meðtöldum söfnuði þeim í Spanish Fork, Utah, sem séra Runólfr Runólfsson, trúboði hins enska lúterska kirkjufélags *General Council*, veitir forstöðu. Síðan hefir einn nýmyndaðr söfnuðr gengið í kirkjufélagið, *Pétrssöfnuðr*, í byggðarlaginu umhverfis Akra, Pembina Co. í Norðr-Dakota. Svo að tala safnaðanna, sem nú standa í kirkjufélaginu, er 23, en auk þeirra eru tveir söfnuðir í prestakalli séra Steingríms N. Þorlákssonar í Minnesota, sem algjörlega fylgja oss í trúarlegu tilliti, þótt ekki hafi þeir enn formlega gengið í kirkjufélagið. Hallsonsöfnuðr í Norðr-Dakota hafði um nokkur ár sökum skorts á prestsþjónustu nálega legið í dái. En á þessu ári hefir hann aftr verið vakinn til lífs.

Á ársþingi í fyrra voru, eins og yðr er kunnugt, tveir guðfræðingar vígðir til prestskapar innan kirkjufélagsins, svo að síðan hafa kirkjufélags-prestarnir verið 6. Var nú til muna bætt úr hinum tilfinnanlega prestaskorti, sem áðr hafði verið, og vantar þó mikið á enn, að allir söfnuðir vorir hafi reglulega og stöðuga prestsþjónustu; og náttúrlega hefir kirkjufélaginu ekki heldr verið unnt að reka nokkra verulega missíón meðal hinna dreifðu hópa af Íslendingum, sem fyrir utan kirkjufélagið standa. Einn af prestum félagsins, séra N. Steingr. Þorláksson, hefir líka, sinna eigin heimilisástæðna vegna, verið burtu frá söfnuðum sínum og kirkjufélagsstarfinu yfir höfuð mikinn hluta af árinu, ferðaðist til Noregs í haust og er nú að eins nýkominn aftr. Annar þeirra, er vígðir voru í fyrra, séra Björn B. Jónsson, var kallaðr til að vera missíónsprestr kirkjufélagsins. Í fjarvist séra Steingríms þjónaði hann prestakalli hans um nokkra mánuði, en að öðru leyti hefir hann ferðazt milli hinna prestlausu safnaða og víðar um byggðir Íslend-

inga nyrðra og haldið þar uppi boðskap kristindómsins. Skýrsla frá honum sjálfum um missíónsstarf það, er hann hefir haft á hendi, kemr væntanlega fram á kirkjuþinginu, og verðr yðr þá ljóst, hvernig hann hefir hagað vinnu sinni, svo og, hvernig þetta fyrirtœki kirkjufélagsins hefir borið sig í fjárhagslegu tilliti. Sú skuld, er kirkjufélagið stendr í við séra Björn, er ekki ýkja-há, en það er því að þakka, að kirkjufélagið hefir sloppið við að launa honum fyrir allan þann tíma, sem hann þjónaði prestakalli séra Steingr. Þorlákssonar. Sumir söfnuðir, sem missíónsprestrinn heimsótti og dvaldi hjá, hafa alls ekkert látið af hendi rakna upp í laun hans, og stendr nú sem sagt fyrir bragðið nokkur skuld upp á kirkjufélagið. Sú skuld þarf náttúrlega að borgast hið fyrsta, en þar sem missíóns-fyrirtœki þetta er svo fjarri því að hafa borið sig peningalega árið sem leið og harðærið enn yfirstandanda, þá er lítið útlit fyrir að kirkjufélagið muni sjá sér fœrt að halda svona lagaðri missíón uppi þetta næstkomanda ár. Hinn prestrinn, sem vígðr var í fyrra, séra Jónas A. Sigurðsson, tók við prestakalli í norðaustrhluta Íslendingabyggðarinnar í Norðr-Dakota og þjónar þar nú 5 söfnuðum, sem áðr höfðu enga verulega prestsþjónustu.

Vígð var kirkja eins af söfnuðum vorum rétt á eftir kirkjuþinginu í fyrra, kirkjan í Selkirk, sem söfnuðrinn þar reisti 1889. Það er eina guðshúsið, sem vígt hefir verið hjá oss á árinu; en búizt er við, að önnur kirkja verði vígð þegar er kirkjuþingi þessu er lokið; það er kirkja Vídalínssafnaðar í norðrhluta Íslendingabyggðarinnar hér í Dakota. Engin ný kirkja hefir verið reist á árinu, svo eg viti.[1]

Skólamáli kirkjufélagsins hefir hörmulega lítið þokað áfram síðan í fyrra, þrátt fyrir heitorðin því viðvíkjandi, er þá voru gjörð af kirkjuþingsmönnum. Samskotin til skólasjóðsins, sem gjörð hafa verið þetta síðasta ár, eru náttúrlega hin mesta ómynd. En við öðru var naumast að búast í öðru eins árferði. Þó er það vafalaust, að meira fé hefði mátt safna, hefði menn lagt sig alla fram. Eg vona nú samt sem áðr, að menn skoði skólamálið sem aðalmál kirkjufélagsins, og kirkjuþing þetta reyni að hrinda því eitthvað áfram. Sumir eru að ympra á því, að réttast og ráðlegt muni, að byrja í kirkjufélagsins nafni á dálítilli undirbúningskennslu nú í haust á líkan hátt og áformað var fyrir nokkrum árum, þótt ekkert yrði þá af þeirri tilraun fyrir þá sök, að sá, sem standa átti fyrir fyrirtækinu, bilaði þá á heilsunni. Hugsa þeir, sem þessu fylgja fram, að áhugi fyrir skólamálinu myndi helzt vakna meðal almennings með því móti, að byrjað væri þegar á ofrlitlum vísi til skólans, en eru hræddir um, að annars verði aldrei unnt að fá almenna hluttöku fólks í málinu. Að sjálfsögðu kemr þetta til álita nú á kirkjuþinginu. Sjálfr hefi eg, eins og öll vor fjármál ganga nú,

1) Seinna varð oss kunnugt, að Fjallasöfnuðr í Norðr-Dakota var um þessar sömu mundir að koma sér upp kirkju, sem kvað vera mjög myndarleg. Ritst.

litla von um, að nokkur skólabyrjan, í hversu smáum stýl sem vera skyldi, geti með nokkru móti komizt á á þessu ári. Skýrsla frá skólanefndinni verðr lögð fyrir þingið.

Samskot voru í fyrra gjörð á kirkjuþingi til kaupa á bókasafni séra Eggerts heitins Briems handa kirkjufélaginu. Þau voru að eins í loforðum, og vantaði þó nokkuð upp á upphæð verðs þess, er safnið var boðið fyrir. Upp á væntanleg meiri samskot var safnið keypt oss til handa af hr. Sigtrygg Jónassyni, er þá var staddr á Íslandi; tók hann það síðan með sér til Winnipeg og fékk mér til varðveizlu. Skilagrein yfir það af loforðunum, sem þegar er borgað, skal eg leggja fram fyrir þetta kirkjuþing. Upphæð sú, sem á vantar, er ekki stór, en hún þarf endilega að borgast. Og svo þarf kirkjufélagið líka að gjöra einhverja ráðstöfun fyrir varðveizlu bókanna og notkan þeirra framvegis.

Búizt var við í fyrra, að löggilding kirkjufélagsins kœmist á á árinu, sem nú er liðið, og út af þeirri von voru fjárhaldsmenn kosnir fyrir kirkjufélagið. En sú kosning hefir orðið þýðingarlaus, því að félagið er ólöggilt enn. Það þótti ekki takanda í mál á þessu ári kostnaðarins vegna, sem er meiri en menn höfðu búizt við, og eg fæ ekki séð, að kirkjumál vor bíði nokkurn skaða við það, þó að enn lengr kunni að dragast með þessa löggilding.

Eg var í fyrra að hugsa um að koma út safni af prédikunum eftir sjálfan mig. Hinir háttvirtu kirkjuþingsmenn tóku vel í það mál, vildu að eg gæfi út boðsbréf og lofuðu að safna sem flestum áskrifendum hver í sínu byggðarlagi. Eg hætti þó brátt við þetta áform; eftir því sem meir harðnaði í ári sannfœrðist eg æ betr og betr um það, að fyrirtœkið væri ótímabært og mér að svo stöddu ofvaxið. Þarf eg að eins að biðja afsökunar á því, að eg í fyrra skyldi fara að hreifa þessu máli.

Háttvirtu kirkjuþingsmenn! Eg finn sárt til þess, hve lítið hefir á liðnu ári verið gjört af oss öllum, mönnum kirkjufélagsins, fyrir málefnið drottins, en sárast finn eg til út af því, hve vesall og ónýtr verkamaðr eg er sjálfr. Eg vona og óska og bið, að á komanda ári verði fyrir náð guðs meira líf í kirkjufélaginu, meiri máttr og vilji hjá limum þess til þess að hrinda nauðsynjamálum þess áfram. Það verði í Jesú nafni!

*Kosning embættismanna*

fór þá fram, þannig: forseti séra Jón Bjarnason, varaforseti séra Friðrik J. Bergmann, — endrkosnir; skrifari séra Hafsteinn Pétrsson, varaskrifari séra Björn B. Jónsson, — endrkosnir; féhirðir Árni Friðriksson, — endrkosinn; varaféhirðir H. Hermann.

Fundarreglur voru því næst lesnar upp.

Í nefnd til að íhuga ársskýrslu forseta og raða málum niðr

á dagskrá voru kosnir: séra Hafsteinn Pétrsson, Björn Jónsson og Jón A. Blöndal.

3. fundr, sama dag kl. 8 e. m.

Nefndin út af ársskýrslu forseta m. m. kom með álit sitt þannig:

Vér, sem í dag vorum kosnir til þess að að íhuga ársskýrslu forseta, og raða málum á dagsskrá þingsins, leyfum oss að bera fram eftirfylgjandi nefndarálit:

Kirkjuþingið lætr í ljósi gleði sína og ánœgju yfir því, að forseti kirkjufélagsins séra Jón Bjarnason hefir fengið svo mikinn bata á heilsu sinni, að hann hefir getað mœtt á kirkjuþingi þessu. Það vottar honum þakklæti sitt fyrir starfsemi hans í þjónustu kirkjufélagsins og óþreytandi áhuga á velferðarmálum þess.

Þessi mál ráðum vér þinginu til að taka á dagskrá sína:

1. Bókasafnsmálið.
2. Málið um borgun á ferðakostnaði kirkjuþingsmanna.
3. Skólamálið.
4. Prestleysismál safnaðanna.
5. Samband kirkjufélagsins við *General Council.*
6. Trúmennska gagnvart trúarjátning kirkju vorrar.
7. Löggilding kirkjufélagsins.
8. Minnisvarðamálið.
9. Sunnudagsskólamál.

Í sambandi við nefndarálit þetta voru hafnar umrœður um hag kirkjufélagsins á hinu liðna ári. En er þeim var lokið, var nefndarálitið borið upp til atkvæða og samþykkt óbreytt að öðru leyti en því, að 4. málið á dagskránni var nefnt *prestþjónustumálið* í staðinn fyrir: „prestleysismál safnaðanna“.

Bókasafnsmálinu, sem fyrst var á dagskránni, frestað í bráðina, en í þess stað tekið fyrir *málið um borgun á ferðakostnaði kirkjuþingsmanna.* Í því sett 3 manna nefnd: séra Steingrímr Þorláksson, Halldór F. Reykjalín og Páll S. Bardal.

Skólamálinu frestað, en tekið fyrir *prestsþjónustumálið.* Í því sett 5 manna nefnd: séra Friðrik J. Bergmann, séra Hafsteinn Pétrsson, Árni Sigvaldason, Árni Sveinsson og Ísak Jónsson.

4. fundr, miðvikud. 27. júní, kl. 9 f. m.

Álit frá nefndinni í málinu út af *ferðakostnaði kirkjuþingsmanna* kom fram svo hljóðanda:

Nefndin, sem sett var í málið um ferðakostnað kirkjuþingsmanna, leggr fyrir þingið eftirfylgjandi álit:

Samkvæmt skýrslum og fundarályktunum, sem nefndinni hafa verið fengnar, eru 3 söfnuðir með nefndarálitinu frá í fyrra, 3 á móti, 1 með skilyrði og 8 með bráðabyrgðarsamþykktinni frá síðasta kirkjuþingi.

Þótt oss þyki fyrir því, að hinn sanni félagsandi ekki skyldi koma betr í ljós við undirtektir safnaðanna, sjáum vér oss ekki fœrt að ráða þinginu til annars en, að svo stöddu, að samþykkja bráðabyrgðarsamþykkt þá, sem gjörð var á kirkjuþinginu i fyrra, þar sem forseta kirkjufélagsins er gefin heimild til að veita fátœkum fjærliggjandi söfnuðum,— svo framarlega sem þeir œski þess —allt upp að $25.00 úr kirkjufélags sjóði upp í ferðakostnað erindsreka þeirra á þing, ef fé væri fyrirliggjandi.

Eftir all-miklar umrœður var nefndarálitið samþykkt.

Samþykkt, að dr. Móritz Halldórsson, sem kjörinn hafði verið sem varamaðr fyrir Garðarsöfnuð og nú var viðstaddr, skyldi sitja á kirkjuþinginu með fullkomnum erindsrekaréttindum í stað H. Hermanns, sem var fjarverandi, þá er hann gæti eigi verið við.

*Bókasafnsmálið* var þá tekið fyrir.

Séra Jón Bjarnason lagði fram reikning frá hr. Sigtrygg Jónassyni og sjálfum sér yfir kostnaðinn við bókasafnið og fé það, er til þess hefði borgazt, og var þá sýnt, að upphæð sú, er vantaði á til þess að safnið væri fullborgað, var $43,55. Var málið rœtt um hríð og síðan í því sett 3 manna nefnd: dr. M. Halldórsson, Sigurðr Sigurðsson og Árni Sveinsson.

5. fundr, sama dag, kl. 8 e. m.

Nefndin í bókasafnsmálinu lagði fram álit sitt svo hljóðanda:

Vér, sem kosnir vorum til að íhuga, hvernig ráða ætti fram úr vandræðum þeim, sem risið hafa út af kaupum á bókasafni því, sem rœða var um á kirkjuþingi í fyrra og sem nú er í vörzlum forseta kirkjufélagsins, höfum komizt að þessari niðrstöðu: Að eina ráðið til þess að ná inn þeirri upphæð, sem enn vantar til þess að ljúka skuld þeirri, sem hvílir á nefndu bókasafni, sé að leita frjálsra samskota meðal hinna núverandi kirkjuþingsmanna og annarra, sem viðstaddir eru á þessu kirkjuþingi, og það því fremr, sem vér álítum, að þetta mál sé frá upphafi fremr mál kirkjuþingsmannanna en kirkjufélagsins í heild sinni.

Vér höfum samkvæmt framansögðu leitað samskotanna og hefir árangrinn orðið sá, að vér höfum fengið: Í peningum.......................... $18.00
og í loforðum.......................... 47.00

Samtals.......... $65.00

Þar sem málið er nú komið á þetta stig, leyfum vér oss, að ráða hinum heiðruðu kirkjuþingsmönnum eða kirkjuþinginu til þess, að afhenda bókasafnið algjörlega í hendr nefnd þeirri, sem kosin verðr í skólamálið til gæzlu og varðveizlu og til ævarandi eignar skólans, þegar hann kemst á fót; og enn fremr ráðum vér til, að bókasafn þetta verði til afnota að eins fyrir þá, sem njóta tilsagnar á skólanum, þegar hann kemst á fót.

Eg undirritaðr er hinum heiðruðu samnefndarmönnum mínum samþykkr á

framan skrifuðu nefndaráliti að undan tekinni síðustu setningunni, sem byrjar á orðunum: „og enn fremr ráðum vér til“.

Árni Sveinsson.

Eftir nokkrar umræður var nefndarálitið samþykkt að undanfelldri niðrlagsmálsgreininni: „og enn fremr ......kemst á fót“, eins og minni hluti nefndarinnar hafði lagt til.

Auk þess, sem í nefndarálitinu er tekið fram, var samþykkt, að skólanefndin skyldi jafnan hafa bókasafnið vátryggt fyrir að minnsta kosti 300 dollurum.

Borin var fram eftirfylgjandi tillaga til þingsályktunar, sem sömuleiðis var samþykkt í einu hljóði:

„þingið lýsir yfir þakklæti sínu til hr. Sigtryggs Jónassonar fyrir þann góða þátt, sem hann hefir átt í því að kirkjufélagið hefir eignazt bókasafn séra Eggerts heitins Briems“.

Samþykkt, að bæta tveim nýjum mönnum við í nefndina í *prestsþjónustumálinu*, og voru í nefndina settir Páll S. Bardal og Vilhelm H. Pálsson.

*Samband kirkjufélagsins við General Council.*

það mál var nú tekið fyrir. Kom séra Friðrik J. Bergmann með það inn á þing og hélt í því inngangsræðu. Nokkrir fleiri tóku til máls, og var málinu síðan vísað til 5 manna nefndar, sem í voru: séra Steingrímr þorláksson, séra Jónas A. Sigurðsson, séra Björn B. Jónsson, Björn Jónsson og Jón A. Blöndal.

6. fundr, fimmtud. 28. Júní, kl. 9 f. m.

Forseti skýrði frá, að hann hefði veitt móttöku $30,00, sem nefndin í bókasafnsmálinu hefði fengið í samskotum frá þingmönnum og öðrum. En auk þess væri loforð fengin fyrir $39.90 (dr. Halldórsson $5,00, Tómas Halldórsson $2.00, þorst. Jóhannesson $2.00, Jónas Samsonarson $2.00, Finnbogi Hjálmarsson $1.00, Árni Sveinsson $3.00, Friðrik Bjarnason $1.00, Einar Hjörleifsson $5.00, séra Jónas A. Sigurðsson $5.00, E. H. Bergmann $5.00, Elis þorvaldsson $5.00, Lárus Árnason $2.00, Jóhannes Jónasson $1.00).

*Trúmennska gagnvart trúarjátning kirkju vorrar* var næsta mál, sem tekið var fyrir Séra Steingrímr þorláksson hélt í því inngangsræðu og skýrði það. Eftir nokkrar frekari umræður var ályktað, að fresta málinu til óákveðins tíma.

*Löggilding kirkjufélagsins.*

Eftir nokkrar umræður var samþykkt, að 3 manna nefnd skyldi sett til að búa málið þannig undir, að á næsta kirkjuþingi, sem haldið yrði í Manitoba, gæti kirkjufélagið samþykkt löggildinguna formlega.

Í þessa nefnd voru því næst kosnir þeir Vilhelm H. Pálsson, Jón A. Blöndal og Árni Friðriksson.

Samþykkt var ennfremr, að önnur nefnd skyldi sett til þess að undirbúa lögilding félagsins „hér fyrir sunnan" (þ. e.: innan Bandaríkja) á þessu þingi, og voru í þá nefnd kvaddir: Sigurðr Sigurðsson, Guðm. Davíðsson og Finnbogi Hjálmarsson.

Forseti las upp bréf frá hr. Gísla Egilssyni, skrifara Lúterssafnaðar í Assineboia, þar sem frá því er skýrt, að nefndr söfnuðr hafi verið leystr upp sökum mannfæðar, sem stafi af burtflutningi fólks þaðan úr byggðinni. En jafnframt er tilkynnt í bréfinu, að fulltrúar safnaðarins hafi samþykkt, að 30 dollarar, sem söfnuðrinn átti, þá er hann hætti að vera til, skyldi gefnir til skólasjóðs kirkjufélagsins, og skuli þetta fé afhent eigi síðar en í lok næstkomanda Desembermánaðar.

Um leið og forseti flutti bróðurkveðju frá séra Runólfi Runólfssyni í Utah inn á þingið, gat hann þess, að sami prestr gjörði fyrirspurn um það, hvort fáanlegr væri prestr frá kirkjufélaginu til safnaðarins í Spanish Fork í stað hans sjálfs, með því hann hefði í hug að skifta um verkahring, ef tækifæri byðist. Og var þessu máli vísað til prestsþjónustumálsnefndarinnar.

*Minnisvarðamálið* tekið fyrir og rætt lítið eitt, en síðan var því frestað þar til síðar á þinginu.

7. fundr, sama dag kl. 9. e. m.

*Prestsþjónustumálið.*

Nefndarálit í því máli lagt fram, þannig hljóðanda:

Herra forseti!

Helzta atriðið, sem nefndin í prestsþjónustumálinu tók til íhugunar, var ólag það, sem upp hefir komið í söfnuðum séra Steingr. Þorlákssonar í fjarveru hans þetta síðast liðna ár. Meðan hann var staddr í Noregi komu söfnuðir hans sér saman um að kalla séra Björn B. Jónsson fyrir prest; einn söfnuðrinn segir honum upp, þrír hafa enn ekki sagt honum upp formlega, en tveir senda erindsreka á kirkjuþing aðallega til að fá þeim vilja sínum framgengt, að séra Steingr. hætti að vera prestr þeirra, en séra Björn taki við prestsþjónustu meðal þeirra.

Nefndin leggr það til, að kirkjuþingið, út af öllum þeim upplýsingum, sem fram hafa komið, lýsi því yfir svo sterklega sem unnt er, að séra Steingr. eigi enga sök í því, að hann verðr að hætta við prestsembætti í söfnuðum sfnum og verðskuldi bæði sem maðr og presr allt hið sama traust og hina sömu virðing, sem kirkjufélagið hefir ávallt til hans borið, frá því fyrst, er hann kom í þjónustu þess.

Nefndin leggr það til, að nauðsynlegt sé undir kringumstœðum þeim, sem eru fyrir hendi, að séra B. B. Jónsson taki köllun þeirri, er hann hefir fengið frá söfnuðunum í Minnesota.

Vér álítum það óhœfu, að kirkjufélagið sleppi séra Steingrími úr þjónustu sinni, svo framarlega nokkur vegr verði sjáanlegr til að njóta þjónustu hans.

Í tilefni af fyrirspurn séra R. Runólfssonar í Utha til forseta kirkjufélagsins lætr nefndin þess getið, að hún álítr kirkjufélaginu alveg ofvaxið að útvega nokkurn prest í stað séra Runólfs, eins og nú er ástatt.

Í sambandi við nefndarálitið var og lögð fram þessi *skýrsla frá missíónspresti* kirkjufélagsins:

Síðan á kirkjuþinginu í fyrra hefi eg ferðazt til safnaðanna í Þingvalla- og Lögbergs-nýl. í Assa. tvisvar sinnum, einu sinni til Vatnsdals nýlendunnar, einu sinni til Álftavatns-nýlendunnar og Shoal Lake nýlendunnar, einu sinni til Nýja Íslands, þrisvar sinnum til Argyle og þaðan tvisvar sinnum til byggðarinnar norðan við Glenboro, fjórum sinnum til Selkirk og einu sinni til Brandon. Auk þess dvaldi eg hálfan fjórða mánuð hjá söfnuðunum í Minnesota. Á þessum tíma hefi eg flutt 73 guðsþjónustur, skírt 98 börn, fermt 52 ungmenni, gift 8 hjón og greftrað 14 manns. Fólk hefi eg tekið til altaris í flestum þessum byggðum og fl.

Eg hefi nú þegar gjört féhirði kirkjufélagsins grein fyrir fjárhagshlið þessa máls. Kirkjufélagið skuldar mér nú $124.30. Auðvitað á kirkjufélagið eftir að fá inn töluvert af fé frá ýmsum söfnuðum, sem enn hafa ekki borgað, en sem gjöra það sjálfsagt í haust.

Nefndarálitið samþykkt óbreytt eftir litlar umrœður.

Féhirðir lagði fram reikning yfir tekjur og útgjöld kirkjufélagsins fyrir hið liðna ár.

Reikningr yfir fjárhag "Sameiningarinnar", tímarits kirkjufélagsins, sömuleiðis lesinn upp og lagðr fram, rannsakaðr og staðfestr af yfirskoðunarmönnum. Sýndi hann, að blaðið var í $166.10 skuld, en átti hins vegar — að nafninu— úti standandi hjá áskrifendam $1687.70 (nl. fyrir 5. árg. $162.50, fyrir 6. árg. $126.68, fyrir 7. árg. $225.02, fyrir 8. árg. $462.50, fyrir 9. árg. $711.00).

8. fundr, föstudag 29. Júní, kl. 9 f. m.

*Löggilding kirkjufélagsins.*

Nefndarálit í því máli lagt fram. Lagði nefndin það til,

að þetta kirkjuþing löggilti kirkjufélagið undir lögum Norðr-Dakota-ríkis. — Eftir að málið hafði verið rœtt um hríð, var því frestað til óákveðins tíma.

*Aldrstakmark fermingar.*

Jón Bíldfell var framsögumaðr þess máls. Hélt hann inngangsrœðu málinu viðvíkjandi og lagði til, að ákveðið væri, að ungmenni skyldi eigi fermd fyr en þau væri 16 ára gömul.

Séra Jón Bjarnason kom með þá breytingartillögu, að yfirlýsing sú, er gjörð var á kirkjuþingi 1887 fermingunni viðvíkjandi, væri staðfest þannig breytt:

Kirkjuþingið leggr söfnuðum kirkjufélagsins fermingarspursmálið á hjarta eins og hið mesta alvörumál fyrir nútíðarkristni vora. Það vill, að söfnuðirnir varni því, að nokkur sé fermdr að eins fyrir þá sök, að fermingingin er almennr siðr í kirkju vorri. Það vill, að enginn sé fermdr fyr en allar líkur eru fengnar fyrir því, að evangelíum kristindómsins sé orðið rótfast í hjarta hans og hann sé með eigin persónulegri sannfœring ákveðinn í því að trúa og lifa eins og sannkristinn maðr þaðan í frá. Sem almenna reglu ákveðr það, að fermingin sé bundin við 14 ára aldr eins og á Íslandi, en telr þó ráðlegra, að ungmenni sé almennt fermd eldri en þar er tíðkanlegt. Það leggr til, að aldrei sé ætlazt til af prestum félagsins, að þeir fermi ungmenni fyr en þau hafa að minnsta um eins árstíma reglulega gengið á sd.skóla. Með tilliti til kristindómsfrœðslu vill það, að alvarlega sé varað við því í söfnuðunum, að aðaláherzlan sé lögð á utanbókarkunnáttu, en jafnframt, að brýnt sé fyrir mönnum, að allt sé undir því komið, að námsefnið verði andleg eign unglingsins.

Eftir nokkrar umrœður var ályktað, að málinu skyldi frestað til næsta kirkjuþings og prestunum falið að undirbúa það að nýju.

*Samband kirkjufélagsins við General Council.*

Nefndarálit framlagt þannig hljóðanda:

Herra forseti!

Nefndin, sem sett var í málið um samband kirkjufélagsins við *General Council*, leyfir sér að leggja fram fyrir þingið eftirfylgjandi álit sitt:

Oss blandast ekki hugr um, að þetta sé eitthvert hið langstœrsta og þýðingarmesta mál, sem komið hefir inn á kirkjuþing. Og með því það er líka nýtt mál, sem söfnuðum kirkjufélagsins er nær því ókunnugt, þá álítum vér, að á þessu þingi sé ekki unnt að gjöra bindandi ákvörðun í málinu. Þess vegna leggjum vér það til: a) Að málið sé falið standandi nefnd, sem búi það undir næsta kirkjuþing og sjái sérstaklega um, að allar nauðsynlegar upplýsingar í málinu og útskýringar á því verði birtar á árinu í „Sam.“, svo öllum söfnuðum kirkjufélagsins gefist fullt tœkifœri til þess að kynnast málinu og íhuga það. Og

b) Að málið verði svo á undan næsta kirkjuþingi borið upp í söfnuðum félagsins og undirtektir þeirra sendar til þess þings.

Málinu frestað.

*Löggildingarmálið*

um hríð rœtt, og því næst var því vísað aftr til nefndarinnar.

9. fundr, sama dag kl. 8. e. m.

Nýtt álit í *löggildingarmálinu* lagt fram svo hljóðanda:

Herra forseti!

Nefnd yðar í málinu um löggilding kirkjufélagsins hefir íhugað málið að nýju og leitað álits lögfróðs manns, og leyfir sér að skýra yðr frá niðrstöðu sinni:

Vér teljum það nú, eins og áðr, afar þýðingarmikið fyrir kirkjufélag vort, að það verði löggilt sem allra fyrst, og í því skyni mælum vér með því, að löggildingarmálið verði falið á hendr lögfrœðingi til fljótra úrslita; og leggjum vér til, að löggilding, sem nái út yfir kirkjufélagið beggja megin landamœranna, megi framgengt verða.

Vér leggjum og til, að sá lögfrœðingr verði útnefndr þegar á þessu þingi, og að hann fái sínar fyrirskipanir frá 7 fjárhaldsmönnum kirkjufélagsins, er útnefndir sé á þessu þingi og gegni starfi sínu þangað til regluleg kosning fer fram í fyrsta sinn eftir að löggildingunni hefir framgengt orðið.

Enn fremr leggjum vér til, að þetta þing gjöri ályktan viðvíkjandi kostnaði þeim, er af löggilding þessari leiðir.

Samþykkt.

*Skólamálið*

var þá tekið til meðferðar, og var svo látandi skýrsla frá skólanefndinni lesin upp:

| | |
|---|---|
| Í sjóði á síðasta kirkjuþingi (1. Júlí 1893) | $ 1462,99 |
| Vextir á árinu | 126,03 |
| Ágóði af *Aldamótum* II | 83,24 |
| Samskot frá Synódus í fyrra | 20,14 |
| Frá ónefndri konu á Íslandi | 5,00 |
| Samskot innan safnaða kirkjufélagsins fyrir kirkjuþing 1894 | 202,60 |
| Gjöf frá dr. M. Halldórsson, afhent skólanefndinni á kirkjuþ. | 100,00 |
| Upphæð skólasjóðs á kirkjuþingi | $ 2000,00 |

Það, sem skólasjóðrinn hefir vaxið á árinu, er því $537,000. Það er að sönnu miklu minni upphæð en átt hefði að vera, en þegar tekið er tillit til hins bága árferðis, sem verið hefir þetta síðast liðna ár, finnst skólanefndinni hún hafa sterkustu ástæðu til að lofa drottin fyrir árangrinn.

Fyrir hönd hins fyrirhugaða skóla leyfir skólanefndin sér að votta kirkjuþingsmönnunum hjartanlegt þakklæti sitt fyrir bókasafnið, sem nefndinni var afhent á þessu kirkjuþingi. Þeir hafa nú á þessum tveimr síðustu kirkjuþingum höfðinglega stungið hendinni í vasa sinn og lagt fram á 4. hundrað dollara til þessa bókasafns. Skólahugmyndinni hefir því aldrei miðað jafn-mikið áfram og þetta síðasta ár.

Nefndin treystir sér því miðr ekki til að ráða kirkjuþinginu til að láta byrja kennslu þetta ár. Til þess skortir enn svo marga hluti. Góð byrjun er bezta auglýsing fyrir skólann, en léleg byrjun mundi eyðileggja hugmyndina. Vér álítum ófœrt að byrja, nema því að eins, að vér hefðum meiri mannafla á að skipa en vér en nú höfum. Árferðið eitt er gildasta ástœðan fyrir því, að öll byrjun á kennslu þetta ár er að voru áliti óráðleg.

Leggjum heldr fram alla krafta vora til að halda söfnuninni í skólasjóð áfram og látum skólamálið vera vort mikla áhugamál á þessu komanda ári, ekki síðr en hingað til.

Skýrt frá, að reikningrinn frá skólanefndinni væri óendrskoðaðr. Orsökin væri sú, að féhirðir skólanefndarinnar, Friðjón Friðriksson, hefði eigi komið til þings, né heldr getað komið á fund með meðnefndarmönnum sínum á undan þingi.

Skólamálið var all-mikið rœtt, en engin sérstök ályktan því viðvíkjandi var tekin af þinginu.

10. fundr, laugardag 30. Júní, kl. 9 f. m.

*Samband kirkjufélagsins við General Council.*

Eftir litlar umrœður um málið var nefndarálitið samþykkt.

*Minnisvarðamálið.*

Ályktað var, að fresta því enn til næsta kirkjuþings; og enn fremr var samþykkt, „að allir kirkjuþingsmennirnir myndi einskonar „Committee on the Whole" yfir árið til stuðnings hinni standandi prestanefnd í málinu, þannig, að hver einstakr þingmaðr setji sér, að safna einum 2 eða 3 dollurum til fyrirtœkisins.

Séra Hafsteini Pétrssyni falið á hendr að safna sunnudagsskólaskýrslum frá kirkjuþingsmönnum til að draga saman úr þeim eina allsherjar skýrslu, er birt skyldi síðan í „Sam." og sömuleiðis fólkstalsskýrslum úr hinum ýmsu söfnuðum.

Skýrsla frá yfirskoðunarmönnum kirkjufélagsreikninganna kom nú fram og var staðfest af kirkjuþinginu. Kirkjufélagssjóðrinn var í $124.38 skuld (við missiónsprestinn séra Björn B. Jónsson), en upp í þá skuld var til í sjóðnum $76.20. Tekjuhalli var þannig $48.18.

Skólanefndin endrkosin (séra Friðrik J. Bergmann, séra Jón Bjarnason, séra Hafsteinn Pétrsson, Friðjón Friðriksson, Magnús Pálsson).

Útgáfunefnd *Sam.* endrkosin.

Yfirskoðunarmenn fyrir komanda ár endrkosnir (Vilhelm H. Pálsson og séra Björn B. Jónsson).

Standandi nefnd kosin: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann, séra Hafsteinn Pétrsson.

Áætlaðar tekjur fyrir kirkjufélagið á komanda ári $150.00.

*English Corresponding Secretary* endrkosinn (séra Friðrik J. Bergmann).

*Næsta kirkjuþing*

var ákveðið að halda skyldi í Pembinasöfnuði samkvæmt tilboði þaðan. Tilboð kom og fram frá Winnipegsöfnuði.

Kirkjuþingið þakkaði Víkrsöfnuði fyrir móttökuna, forseta fyrir stjórn mála á þingi og utan þings, og ritstjóra Einari Hjörleifssyni fyrir bókan gjörðabókar.

*Fyrirlestrar.*

Á miðvikudaginn 27. Júní, eftir miðjan dag, flutti séra Friðrik J. Bergmann fyrirlestr á kirkjuþinginu um *Sársaukann í lífinu.* Og á sama tíma á föstudaginn 29. Júní flutti séra Steingrímr Þorláksson annan fyrirlestr til svars upp á spurninguna: *Hvað er sannleikr?* — Á föstudaginn skömmu á undan fyrirlestri séra Steingríms fór fram altarisgönguguðsþjónusta fyrir kirkjuþingsmenn og fólk úr Víkrsöfnuði, og prédikaði séra Steingrímr við það tækifæri.

*Almennar umræður*

fóru fram á fimmtudaginn, 28. Júní, að áliðnum degi. Umræðuefnið var: *Hver afskifti eiga Austr-Íslendingar og Vestr-Íslendingar að hafa hvorir af annarra málum.* Séra Jón Bjarnason hélt inngangsræðuna. Páll S. Bardal stýrði umræðunum.

Skömmu eftir miðjan dag á laugardaginn 30. Júní var kirkjuþinginu slitið af forseta eftir að hann hafði lesið 23. Davíðs sálm og flutt bæn.

---

Sunnudagrinn næsti á eftir kirkjuþinginu var hátíðardagr mikill fyrir fólk í Vídalínssöfnuði, því þá fór fram vígsla á kirkju safnaðarins í viðrvist fjölda fólks. Forseti kirkjufélagsins séra Jón Bjarnason framkvæmdi vígsluna með aðstoð hinna prestanna allra, og prédikaði síðan út af Hebr. 4, 12-13. Um morguninn sama dag höfðu guðsþjónustur verið haldnar á þrem öðrum stöðum þar í Íslendingabyggðinni: á Garðar, Eyford og Hallson, og prédikuðu þar hinir prestarnir, þeir er ekki eiga þar

heima, hver á sínum staðnum: séra Björn B. Jónsson á Garðar, séra Steingrímr Þorláksson á Eyford og séra Hafsteinn Pétrsson á Hallson.

---

## Davíðs sálmr 31.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Jesús Kristr að Jórdan kom.)

1. Á einum þér er allt mitt traust,
því engri neyð eg kvíði;
þú, drottinn minn, ert hetja hraust
og hjálpar mér í stríði.
Þitt blessað hjarta beyg að mér,
svo bót eg fái skjóta.
Mér öruggt bjarg og vígi ver,
svo vörn eg megi hljóta
og friðar fá að njóta.

2. Minn faðir, þér í föðurhönd
nú fel eg líf og anda.
Þú líknar bæði lífi' og önd
og lætr neitt ei granda.
Ó, varðveit þú hið veika ker,
þú veizt þar dýr er sjóðr;
far vægt með þetta veika gler,
og vertu þolinmóðr.
Ó, heyr það, guð minn góðr.

3. Hvert augnablik og æfistund
er allt í hendi þinni.
Það geymi vel þín milda mund,
svo mein ei nokkur vinni.
Með ljósi þínu leið mig hér
á lífsins myrka vegi.
Í skugga þínum skýl þú mér,
svo skjól eg finna megi,
og féndr óttist eigi.

4. Minn eigin guð, eg gleðst í þér,
eg gleðst af miskunn þinni,
er bœnir mínar heyrðir hér
og hlífðir öndu minni.
Ó, allir lýðir, elskið þann,
sem yðr frelsað hefir,
þá stœrilátu hrekr hann,
en hinum umbun gefr
og vernd og blessan vefr.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna“.

---

Hr. **Sigrbjörn Sigrjónsson** (164 Kate St,) hefir frá útgáfunefnd „Sameiningarinnar“ fengið umboð til að innkalla hinar útistandandi skuldir blaðsins, nema frá kaupendum í Dakota, þar sem séra **Friðrik J. Bergmann** er innköllunarmaðr. Féhirðir blaðsins er hr. JÓN BLÖNDAL, 545 William Ave.

---

Biblían og nýja testamentið er til kaups hjá ritstjóra *Sam.*

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; þriðji ársfjórðungr 1894.

10. lexía, sunnud. 2. Sept.: Jesú hreinsar musterið: Jóh. 2, 13—25.
11. lexía, sunnud. 9. Sept.: Jesús og Nikodemus: Jóh. 3, 1—16.
12. lexía, sunnud. 16. Sept.: Jesús við Jakobsbrunn: Jóh. 4, 9—26.
13. lexía, sunnud. 23. Sept.: Bindindissemi Daníels: Dan. 1, 8—20;
eða: Friðarríki Krists: Esaj. 1, 1—9.
14. lexía, sunnud. 30. Sept.: Yfirlit.

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.